# ÜBERSICHT DES INHALTS.



Halle, Buchdruckerei des Waisenhauses.

# HATTATAL SNORRA STURLUSONAR

HERAUSGEGEBEN

VON

TH. MÖBIUS

II.

(GEDICHT UND COMMENTAR)

HALLE A. S.

VERLAG DER BUCHHANDLUNG DES WAISENHAUSES

1881

# HATTATAL
# SNORRA STURLUSONAR

HERAUSGEGEBEN

VON

TH. MÖBIUS

II.

(GEDICHT UND COMMENTAR)




HALLE A. S.

VERLAG DER BUCHHANDLUNG DES WAISENHAUSES

1881.

# HATTATAL
# SNORRA STURLUSONAR

---

## I.

Hvat eru hættir skáldskaparins? þrennir. Hverir? Setning, 594
leyfi, fyrirboðning. Hvat er setning háttanna? Tvenn. Hver? Rétt ok breytt.

Hvernig er rétt setning háttanna? Tvenn. Hver? Tala ok grein. Hvat er tala setningar háttanna? þrenn. Hver? Sú er ein tala, hversu margir hættir hafa funnizt í kveðskap hǫfuðskálda; ǫnnur tala er þat, hversu mǫrg vísuorð standa í einu eyrindi í hverjum hætti; en þriðja tala er sú, hversu margar samstǫfur eru settar í hvert vísuorð í hverjum hætti. Hver er grein setningar háttanna? Tvenn. Hver? Málsgrein ok hljóðsgrein.

Stafasetning gerir mál alt, en hljóðsgrein er þat at hafa samstǫfur langar eða skammar, harðar eða linar, ok þat er setning hljóðsgreina er vér kǫllum hendingar.

Svá sem hér er kveðit:

1. Lætr sá'r Hákon heitir,
hann rekkir lið, bannat,
| jǫrð kann frelsa, firðum
friðrofs, konungr, ofsa;
sjálfr ræðr alt ok Elfar
ungr stillir sá milli,
gramr á gipt at fremri, 596
Gandvíkr jǫfurr landi.

Hér er stafasetning sú er hætti ræðr ok kveðandi gerir, þat eru tólf stafir í eyrindi ok eru þrír settir í hvern fjórðung; í hverjum fjórðungi eru tvau vísuorð; hverju vísuorði fylgja sex samstǫfur. Í ǫðru vísuorði er settr sá stafr fyrst í vísuorðinu, er vér kǫllum hǫfuðstaf; sá stafr ræðr kveðandi; en

í fyrsta vísuorði mun sá stafr finnaz tysvar standa fyrir samstǫfur; þá stafi kǫllum vér stuðla. Ef hǫfuðstafr er samhljóðandi, þa skulu stuðlar vera enn sami stafr; svá sem hér er:

Lætr sá'r Hákon heitir,
hann rekkir lið, bannat

en rangt er, ef þessir stafir standa fyrir samstǫfur optar eða sjaldnar en svá í fjórðungi. En ef hljóðstafr er hǫfuðstafrinn, þá skulu stuðlar vera ok hljóðstafir, ok er þá fegra, at sinn hljóðstafr sé hverr þeira; þá má ok hlýða, at hljóðstafr standi fyrir optar í fjórðungi í fornǫfnum eða málfyllingum þeim er svá kveðr at: ek, eða svá: en, er, at, ok, í, á, af, of, um ok er þat leyfi en eigi rétt setning.

598 Ǫnnur stafasetning er sú er fylgir setning hljóðs þess er hátt gerir ok kveðandi. Skal sú grein í dróttkvæðum hætti svá vera, at fjórðungr vísu skal þar saman fara at allri stafasetning ok hljóða; skal í fyrra vísuorði þannig greina þá setning:

jǫrð kann frelsa firðum

hér er svá: jǫrð, firð-; þá er ein samstafa í hvárum stað, ok sinn hljóðstafr fylgir hvárri, ok svá upphafsstafr; en einir stafir eru eptir hljóðstaf í báðum orðum. Þessa setning hljóðfalls kǫllum vér skothending. En í ǫðru vísuorði er svá:

friðrofs konungr ofsa

svá er hér: rofs, ofs-; þar er einn hljóðstafr, ok svá allir *stafir* þeir er eptir fara í báðum orðum, en upphafsstafir greina orðin; þetta heita aðalhendingar.

Svá skal hendingar setja í dróttkvæðum hætti, at hin síðari hending í hverju vísuorði, er heitir viðrhending, hon skal standa í þeiri samstǫfu, er ein er síðar. En sú hending, er frumhending heitir, stendr stundum í upphafi orðs ok

kǫllum vér þá oddhending, stundum í miðju orði ok kǫllum vér þá hluthending.

Þetta er dróttkvæðr háttr; með þeima hætti er flest ort þat er vandat er; þessi er upphaf allra hátta svá sem málrúnar eru fyrir ǫðrum rúnum.

Hvernig er breytt setning háttanna? Tvá vega. Hvernig? Með máli ok hljóðum. Hvernig | skal með máli skipta? 600
Tvá vega. Hvernig? Halda eða skipta háttunum. Hvernig skal breyta háttunum ok halda sama hætti? Svá, at kenna [eða styðja eða reka] eða sannkenna eða yrkja at nýgørvingum.

Hvat eru kendir hættir? Svá sem þetta:

2. Fellr of fúra stilli
fleinbraks, limu axla,
Hamðis fǫng, þar's hringum
hylr ættstuðill Skylja;
holt felr hildigelti
heila bœs ok deilir
gulls í gemlis stalli
gunnseið skǫrungr reiðir.

Hér eru ǫll heiti kend í þessi vísu, en hendingar ok orðalengð ok stafaskipti skulu fara sem fyrr var ritað.

Kenningar eru með þrennu móti greindar: fyrst heita kenningar, annat tvíkent, þriðja rekit. Þat er kenning at kalla fleinbrak orrostuna, en þat er tvíkent at kalla fleinbraksfúr sverðit, en þá er rekit ef lengra er.

3. Úlfs bága verr ægis
ítr báls hati málu;
| sett eru borð fyr bratta
brún Míms vinar rúnu;
orms váða kann eiðu
allvaldr gǫfugr halda;
menstríðir! njót móður 602
mellu dólgs til elli.

Hvat eru sannkenningar? Svá sem þetta:

4. Stinn sár þróask stórum,
sterk egg frǫmum seggjum
hvast skerr hlífar traustar,
hár gramr lifir framla;
hrein sverð litar harða
hverr drengr; gǫfugr þengill,
ítr rǫnd furask undrum,
unir bjartr snǫru hjarta.

Þat er sannkenning, at styðja svá orðit með sǫnnu efni, at kalla stinn sárin því at hǫfug eru sár stór, en rétt er mælt at þróaz; ǫnnur sannkenning er sú, at sárin þróaz stórum; nú er eitt vísuorð ok tvær sannkenningar. Í ǫðru vísuorði er kǫlluð sterk egg, en framir seggir. Í enu þriðja er svá, at hvast skerr, hlífin er traust; ok í fjórða orði at kalla konunginn mikinn, en líf hans framligt. Þar næst at kalla hreint sverð, ok harðliga roðit, en einnhverr liðsmanna
604 ok væri rétt mál þótt | maðr væri nefndr; gǫfugr er konungrinn kallaðr; rǫndin var kostig ok furaðiz undarliga skjótt; konungrinn undi glaðr frœknu hjarta. Nú eru hér sýndar sextán sannkenningar í átta vísuorðum, en þó fegra þær mjǫk í kveðandi at eigi sé svá vandliga eptir þeim farit.

[Sannkenningar hafa þrenna grein: heitir ein sannkenning, ǫnnur studning, þriðja tvíriðit.]

Þetta er tvíriðit kallat:

5. Óðharða spyr'k eyða
egg fullhvǫtum seggjum,
dáðrǫkkum veldr dauða
dreng ofrhugaðr þengill;
hamdøkkum fær Hlakkar
hauk munnroða aukinn,
veghrœsinn spyr'k vísa,
valdr ógnþorinn skjaldar.

Hér fylgir studning hverri sannkenning svá sem kǫlluð er eggin óðhǫrð, en fullhvatir menninir. Þat er sannkenning: hǫrð egg, en hvatir menn; þat er studning er annat sǫnnunarorð fylgir sannkenningu.

606 Hvat eru nýgørvingar? Svá sem þetta:

6. Sviðr lætr sóknar naðra
slíðrbraut jǫfurr skríða;
ótt ferr rógs ór réttum
ramsnákr fetilhamsi;
linnr kná sverða sennu
sveita bekks at leita;
ormr þyrr vals at varmri
víggjǫll sefa stígu.

Þat eru nýgørvingar at kalla sverðit orm ok kenna rétt, en slíðrirnar gǫtur hans, en fetlana ok umgerð hams hans.

þar heldr til náttúra ormsins, at hann skríðr ór hamsi ok til vatns; því er svá, at hann ferr leita blóðs-bekkjar ok skríðr hugar-stígu, þat eru brjóst manna. Þá eru nýgørvingar vel kveðnar, at þat mál er upp er tekit haldi of alla vísu; en ef sverð er ormr kallaðr, en síðan fiskr eða vǫndr eða annan veg breytt, þat kalla menn nykrat ok þykkir þat spilla.

Nú er dróttkvæðr háttr með fimm greinum, ok er þó hinn sami háttr réttr ok úbrugðinn, ok er*u* optliga þessar greinir sumar eða allar í einni vísu, ok er þat rétt: því at kenningar
auka orðfjǫlða, sann|kenningar fylla ok fegra mál, nygørv- 608
ingar sýna kunnustu ok orðfimi.

Þat er leyfi háttanna, at hafa samstǫfur seinar eða skjótar svá at dragiz fram eða aptr ór réttri tǫlu setningar, ok megu finnaz svá seinar at fimm samstǫfur sé í ǫðru ok enu fjórða vísuorði. Svá sem hér er:

7. Hjálms fylli spekr hilmir
hvatr Vindhlæs skatna,
hann kná hjǫrvi þunnum
hræs þjóðár ræsa;
ýgr hilmir lætr eiga
ǫld dreyrfá skjǫldu;
styrs rýðr stillir hersum
sterkr járngrá serki.

Hér eru allar oddhendingar hinar fyrri hendingar, ok er þó dróttkvæðr háttr at hætti.

Nú skal sýna svá skjótar samstǫfur ok svá settar nær hverja annarri, at af því eykr lengð orðsins:

8. Klofinn spyr ek hjálm fyrir hilmis
hjarar egg; duga seggir;
því eru heldr þar er skekr skjǫldu
skafin sverð lituð ferðar;
bila muna gramr, þó at gumna 610
gular rítr nái líta;
draga þorir hann yfir hreinna
hvatan brand þrǫmu randa.

Hér er í fyrsta ok þriđja vísuorđi níu samstǫfur, en í ǫđru ok enu fjórđa sjau; hér er þat sýnt, hversu flestar samstǫfur megu vera í vísuorđi međ dróttkvæđum hætti, ok af þessu má þat vita, at átta eđa sjau megu vel hlýđa í fyrsta ok þriđja vísuorđi. Í þessi vísu eru allar frumhendingar hluthendur, ok dregr þat til at lengja má orđit, at sem flestar samstǫfur standi fyrir hendingar.

[Þat er annat leyfi háttanna, at hafa í dróttkvæđum hætti eitt orđ eđa tvau í vísu međ álǫgum eđa detthent eđa dunhent eđa skjálfhent eđa međ nǫkkurum þeim hætti er eigi spilli kveđandi.

Þriđja leyfi er þat, at hafa ađalhendingar í fyrsta eđa þriđja vísuorđi.

Fjórđa leyfi er þat, at skemmar svá samstǫfur, at gera eina ór tveim ok taka ór annarri hljóđstaf; þat kǫllum vér bragarmál: svá sem hér, er kvađ Þórarinn máhlíđingr:

varđa'k mik þar's, myrđir
morđfárs! vegđ þorđu —

en er sú grein út sett myklu lengra.

Þat er hit fimta leyfi, at skipta tíđum í vísuhelmingi.

Sétta: at hafa í dróttkvæđum hætti samhendingar eđa liđhendingar.

612 Sjaunda: at hafa eitt | málsorđ í báđum vísuhelmingum, ok þykkir þat spilla í einstaka vísum; ok svá þó at þat sé í síđara helmingi, ef mađr er nefndr eđa kendr í fyrra helmingi, at þat sé eigi nafn annan veg en *hann* eđa *hinn* eđa *sá* eđa *sjá*.

Átta: at nýta, þótt samkvætt verđi viđ þat er áđr er ort vísuorđ eđa skemra.

Níunda: at reka til hinnar fimtu kenningar, en ór ættum er,. ef lengra er rekit; en þótt þat finniz í fornskálda verka, þá látum vér þat nú únýtt.

Tíunda: ef vísu fylgir drag eða stuðill.

Ellipta er þat, at er eða en eða at má hafa optar en eitt sinn í vísuorði svá sem Refr kvað:

Sæll er hinn er, hranna
hádýra, vel, stýrir!
tíð erumk vitnis váða
víngerð, unir sínu.

Tólpta er atriðs-klauf.]

[Hvat er tíðaskipti? þrent. Hvernig? þat er var, þat er er, þat er verðr.]

Hver setning er þat, at breyta háttum með máli einu? þat má svá gera, at gefa nafn háttum ok greina svá tǫlu háttanna ena fyrstu, en halda annarri ok enni þriðju tǫlu setningar, þat er, sem fyrr var ritað, at hafa átta vísuorð í eyrindi, ok hin þriðja tala, at hafa sex samstǫfur í vísuorði ok sǫmu setning | hendinganna. 614

Háttum er skipt með ýmsum orðtǫkum, ok er þessi einn háttr, er kallaðr er sextánmælt:

9. Vex iðn, vellir roðna,
verpr lind, þrimu snerpir,
fæsk gagn, fylkir eignask,
falr hitnar, seðsk vitnir;
skekr rǫnd, skildir bendask,
skelfr askr, griðum raskar,
brandr gellr, brynjur sundrask,
braka spjǫr, litask ǫrvar.

Hér eru tvau mál fullkomin í hverju vísuorði, en orðalengð ok samstǫfur ok hendingar ok stafaskipti sem dróttkvætt.

Nú er breytt annan veg dróttkvæðum hætti, ok enn með máli einu; þenna hátt kalla menn áttmælt:

10. Jǫrđ verr siklingr sverđum,
sundr rjúfa spjǫr undir,
lind skerr í styr steinda,
støkkr hauss af bol lausum;
falla fólk á velli,
fremr mildr jǫfurr hildi,
egg bítr á lim lýti,
liggr skǫr sniđin hjǫrvi.

Hér er mál fult í hverju vísuorđi.

616 Þessi er hinn þriđi (fjórđungalok):

11. Ýskelfir kann úlfum
auđmildr búa gildi;
lætr gylđis kyn gáti
gunnsnarr una harri;
fær gotna vinr vitni
valbjór afar-stóran;
vargr tér ór ben bergja
blóđdrykk ok grǫn rjóđa.

Hér lýkr máli í tveim vísuorđum.

Sjá háttr er nú skal rita er hinn fjórđi þeira er breyttir eru, en hinn fimti at Háttatali [þetta er stælt kallat]:

12. Hákon veldr ok hǫldum
(harđráđum guđ jarđar
tiggja lér međ tíri)
teitr þjóđkonungs heiti;
vald á víđrar foldar
(vindræfrs jǫfurr gæfu
ǫđlingi skóp ungum)
ǫrlyndr skati gǫrla.

Hér er svá:

Hákon veldr ok hǫldum
teitr þjóđkonungs heiti;

618 en annat ok it þriđja vísuorđ er sér um mál, ok er þat stál kallat.

Þessi er hinn fimti (hjástælt):

13. Manndýrđir fá mærđar,
mæt ǫld, fira gæti,
lýtr auđgjafa ítrum
ǫll. Stóđ sær of fjǫllum.
Rjóđvendils gat randa
rœkinjǫrđr at sœkja,
hæf ferđ var sú harđa,
heim. Skaut jǫrđ ór geima.

Þetta kǫllum vér hjástælt. Hér er it fyrsta vísuorđ ok annat ok hit þriđja sér um mál, ok hefir þó þat mál eina samstǫfu međ fullu orđi af hinu fjórđa vísuorđi; en þær fimm samstǫfur er eptir fara lúka heilu máli, ok skal orđtak vera forn minni.

þessi er hinn sjaundi (langlokur):

14. Hákon rædr med heidan
(hefir drengja vinr fengit
lǫnd, verr budlungr brandi,
breidfeld, mikit veldi,
rógleiks náir ríki
remmitýr at stýra,
| ǫld fagnar því, eignu) 620
ordróm konungdómi

Hér hefr upp mál í enu fyrsta vísuordi, ok lýkr í enu sídasta ok eru þau sér um mál.

þessi er enn átti háttrinn (tiltekit):

15. þeim er — grundar grímu
gjald-seids ok var faldinn
drótt man enn þann's — átti
ádr hans fadir ráda;
gunnhættir kná grýttu,
gramr býr of þrek, stýra,
stórt rædr hann, en hjarta
hvetr, budlunga setri.

Hér er hinn fyrri vísuhelmingr leiddr af þeiri vísu er ádr var kvedin, ok fylgir þat málsord er afleiding er kallat [er sídast var í hinni fyrri vísu] þessum vísuhelmingi, ok er sá vísuhelmingr eigi elligar réttr at máli.

þessi er hinn níundi háttr:

16. Setr of vísa vitran
vígdrótt, en þar hníga,
ýr dregsk, vid skotskúrum
skjaldborg, í gras aldir;
vápnrjódr stikar vída,
vellbrjótr á lǫg, spjótum,
| þryngr at sverda sǫngvi, 622
sóknhardr þrǫmu jardar.

þat málsord er fyrst er í þessi vísu er sídast í hinni fyrri, ok er hin sídari svá dregin af hinni fyrri; því heita þat drǫgur.

þessi er hinn tíundi háttr er vér kǫllum refhvǫrf. Í þeima hætti skal velja saman þau ordtǫk er úlíkust sé at greina, ok hafi þó einnar tídar fall bædi ord, ef vel skal vera. En til þessa háttar er vant at finna ǫll ord gagnstadlig, ok eru hér fyrir því sum ord dregin til hœginda; en sýnt er í þessi vísu þat at ordin munu finnaz, ef vandliga er leitad, ok mun hér þat sýnaz, at 'flest frumsmíd stendr til bóta'. Svá er hér kvedit:

17. Síks glóðar verr sœkir
slétt skarð hafi jarðar;
hlífgranda rekr hendir
heit kǫld loga ǫldu;
fljótt válkat skilr fylkir
friðlæ, rǫðuls sævar
ránsið ræsir stǫðvar,
reiðr, glaðr frǫmum meiðum.

Hér er í fyrsta vísuorði svá kveðit: síks, glóðar — sík
er vatn, glóð er eldr, en eldr ok vatn hatar hvárt ǫðru; verr,
sœkir — þat er úlíkt at verja ok sœkja. Annat vísuorð er
624 svá: slétt, skarð — | slétt þat er jafnt, skarð þat er úslétt;
ok svá: hafi, jarðar — sær er haf, land er jǫrð, en þá er í
eitt fall mælt, at sá ferr af hafi til jarðar. Þriðja vísuorð er
svá: hlíf, granda — þat er ljóst mælt, ok svá: rekr, hendir
— sá flytr braut er rekr, en sá stǫðvar er hendir. Svá er hit
fjórða: heit, kǫld — þat eru ljós orð, ok svá: loga, ǫldu —
logi er eldr, alda er sjár. Fimta orð er svá: fljótt, válkat —
fljótt er þat er skjótt er, válkat þat er seint er, ok svá: skilr,
fylkir — sá er skilr dreifir, en sá er fylkir samnar. Sétta orð
er svá: frið, læ — friðr er sætt, læ þat er vél; ok enn: rǫðull,
sævar — rǫðull er sól ok gengr hon fyrir eld í ǫllum kenn-
ingum, sær er enn sem fyrr í móti eldi. Sjaunda orð er svá:
ránsið — rán þat er ósiðr, siðr er fyrir sik; ok svá: ræsir,
stǫðvar — sá flytr er ræsir, en sá heldr aptr er stǫðvar.
Átta orð er svá: reiðr, glaðr — þat er ljóst mælt; ok svá
frǫmum, meiðum — þat er újafnt at vinna mǫnnum frama
eða meizlur.

Hér eru sýnd í þessi vísu sextán orðtǫk sundrgreinilig,
ok eru flest ofljós til rétts máls at fœra, ok skal þá svá upp
taka: síks glóð þat er gull, sœkir gulls þat er maðr; hann
626 verr skarð jarðar; hafi slétt þat eru Firðir, svá | heitir fylki í
Noregi; hlífgrandi þat eru vápn, hendir loga ǫldu þat er maðr
er rekr kǫld heit sverðinu þat er at hegna úsiðu; fljótt válkat
má þat kalla er skjótráðit er, þat skilr hann af ófriðinum;

konungr heitir fylkir; ránsið ræsir stǫðvar sævar rǫðuls meiðum frǫmum. Þetta heita en mestu refhvǫrf.

Þessi eru ǫnnur refhvǫrf, ok eru hér hálfu færi vísuorð þau er refhvǫrfum eru ort, ok eru þau tvenn í ǫðru hverju vísuorði, ok eru því kǫlluð en mestu:

18. Blóð fremr, Hlǫkk at háðisk
heldr slitnar dul, vitni;
skjǫldr, en skatnar foldir,
skelfr harðr, taka varða;
fal lætr of her hvítan
hollr gramr rekinn framðan;
en tiggja sonr, seggjum
svalr brandr, dugir, grandar.

Hér eru þau refhvǫrf í ǫðru vísuorði: heldr slitnar, dul vitni; dul er laun, en vitni er sannan. En í fjórða vísuorði eru þessi: skelfr harðr, taka varða. Í sétta vísuorði er svá: hollr gramr, rekinn framðan. Í átta vísuorði er svá: svalr 628 brandr — brandr er elds heiti; dugir grandar — þetta er ofljóst ort.

Hér eru ok ǫnnur máltǫk þau er til máls skal taka svá at kalla: blóð fremr vitni þat er vargr; en dul eða laun slitnar eða rofnar at Hlǫkk háðiz þat er orrosta. Ok í ǫðrum fjórðungi er svá: at harðr skjǫldr *skelfr*, en skatnar taka at varða ríki. Í þriðja fjórðungi er svá: at hollr gramr of her lætr framðan fal hvítan rekinn; sá er framiðr, er framar er settr. Í fjórða fjórðungi er svá: at svalr brandr grandar seggjum, en tiggja sonr dugir.

Þessi er hinn þriði refhvarfa-háttr:

19. Segl skekr of hlyn, Huglar,
hvast drífa skip, rasta,
en fǫll, of gram, gylli
grunn-, djúp, hata unna;
né rán við hafhreinum,
háraust skapar flaustum,
hrǫnn fyr húfi þunnum
heil klofnar, frið, deilu.

Hér er eitt vísuorð í hvárum helmingi þat er refhvǫrfum er ort, ok tvenn í hvárum, svá sem hér: grunn | djúp, hata 630 unna —, en í enum efra helmingi er svá: heil klofnar, frið

deilu; þessi eru at kalli en mestu refhvǫrf, ok þó minst af þessum.

Nú hefjaz en minni refhvǫrf:

20. Hélir hlýr at stáli,
hafit fellr, en svífr þelli,
ferð dvǫl firrisk, harða
fram mót lagar glammi;
vindr réttr váðir bendir,
vefr rekr á haf snekkjur,
veðr þyrr, vísa iðjur,
varar fýsir skip, lýsa.

Hér eru ein refhvǫrf í hverju vísuorði ok flest ofljóst.

Þessi eru ǫnnur en minni:

21. Lung frá'k lýða þengils,
lá reis of skut, geisa,
en svǫrð of her herða,
hljóp stóð und gram Róða;
þjóð fær þungra skeiða
þrǫng rúm skipat lǫngum;
stál lætr styrjar deilir
stinn kløkk í mar søkkva.

Hér eru *ein* refhvǫrf í ǫdru hverju vísuorði.

632 Þessi eru en þriðju:

22. Himinglæfa strýkr háfar,
hrǫnn skilja sog, þiljur,
lǫgstíga vill lægir
ljótr fagrdrasil brjóta;
lýsheims náir ljóma,
líðr ár, of gram blíðum,
uðr rekkir kjǫl kløkkvan
kǫld, eisa; far geisar.

Hér eru ein refhvǫrf í hvárum helmingi; þessi eru hin minstu refhvǫrf.

Enn er sá háttr er vér kǫllum refhvarfabróður:

23. Firrisk hǫnd með harra
hlumr, líðr vetr af sumri,
en flaust við lǫg Lista
lǫng taka hvíld at gǫngu.
Ǫl mœðir lið lýða,
létt skipask hǫll, it rétta,
en skál at gjǫf góla
gulls svífr, tóm, in fulla.

Hér er í ǫðru ok hinu fjórða vísuorði þau orð er gagnstaðlig eru hvert ǫðru sem refhvǫrf, enda standa eigi saman,
634 ok er ein samstafa millum þeira ok lúkaz | bæði eigi *í* eina tíð.

* * *

(þetta er dunhenda):

24. Hreintjǫrnum gleðr horna,
horn náir lítt at þorna,
mjǫðr hegnir bǫl bragna,
bragningr skipa sagnir;
fólkhǫmlu gefr framla
framlyndr viðum gamlar
hinn's heldr fyr skot skjǫldum
skjǫldungr hunangs ǫldur.

Hér er þat málsorð fyrst í ǫðru ok enu fjórða vísuorði er síðast er í enu fyrsta ok þriðja.

þetta er tilsagt:

25. Rǫst gefr ǫðlingr jastar,
ǫl virði'k svá, firðum;
þǫgn fellir brim bragna,
bjórr forn er þat, horna;
| máls kann mildingr heilsu, 636
mjǫðr heitir svá, veita;
strúgs kemr í val veiga,
vín kalla'k þat, galli.

Nú er orðskviðaháttr:

26. Fúss brýtr fylkir eisu
fens; — bregðr hǫnd ávenju;
ránhegnir gefr Rínar
rǫf; — spyrr ætt at jǫfrum;
mjǫk trúir ræsir rekka
raun; — sér gjǫf til launa;
ráð á lofðungr lýða
lengr; — vex hverr af gengi.

Hér hefr upp annat ok hit fjórða vísuorð með fullu orði ok einni samstǫfu, ok leiðir þat orð af hinu fyrra vísuorði, en þær fimm samstǫfur er þá eru | eptir eru sér um mál. 638

þetta er álagsháttr:

27. Ískalda skar'k ǫldu
eik, var súð in bleika
reynd, til ræsis fundar
ríks; em'k kuðr at slíku.
Brjótr þá hersis heiti
hátt, dugir sœmð at vátta,
auðs af jarla prýði
ítrs; vara siglt til lítils.

þessir hættir er nú eru ritaðir eru dróttkvæðir at hendingum ok orðalengð; hér eru sex samstǫfur í hverju vísuorði ok aðalhendingar í ǫðru ok enu fjórða, en skothendur í fyrsta ok þriðja.

Hvernig skal skipta dróttkvæđum hætti međ hendingum eđa orđalengđ? Svá sem hér er tvískelft:

28. Vandbaugs veitti sendir
vígrakkr, en gjǫf þakka'k
skjaldbraks Skylja mildum,
skipreiđu mér, heiđa;
fann næst fylkir unna
falldýr at gjǫf stýri
stálhreins; styrjar deilis
stórlæti sá'k mæta.

Hér er í fyrsta ok þriđja vísuorđi þat er háttum skiptir; hér standaz hljóđfyllendr svá nær at tvær samstǫfur eru í milli þeira, þeir gera skjálfhendur stuđlar, ok er hinn fyrri upphaf vísuorđs, en hendingar standaz sem first. En ef frumhending er í þeiri samstǫfu er næst er hinni fyrstu, þá bregz eigi skjálfhenda.

Þessi er hinn fyrsti háttr ritađr þeira er breyttr sé af dróttkvæđum hætti međ fullu háttaskipti, ok héđan frá skal nú rita þær greinir er skipt er dróttkvæđum hætti ok breytt međ hljóđum ok hendingaskipti eđa orđalengđ, stundum viđ lagt en stundum af tekit.

640 Þessi er detthendr háttr:

29. Tvær man'k hilmi hýrum
heims-vistir útvistar,
hlaut'k ásamt at sitja
seimgildi fémildum;
fúss gaf fylkir hnossir
fleinstýri margdýrar,
hollr var hersa stilli
hoddspennir fjǫlmennum.

Hér skiptaz hættir í ǫđru ok fjórđa vísuorđi ok ræđr en fjórđa samstafa háttunum.

Þetta er draugsháttr:

30. Þoll biđ'k hilmis hylli
halda grœnna skjalda;
askr beiđ af því þroska
þilju Hrungnis ilja;
vígfoldar njót valdi
vandar margra landa,
nýtr vartu oss, til ítrar
elli, dólga fellir!

Hér er í ǫđru ok fjórđa vísuorđi þat er háttum skiptir ok ræđr hér hin þriđja samstafa.

## II.

Nú hefr upp annat kvæði. 642
Þetta heitir bragarbót.

31. Stáls dynblakka støkkvi
stinngeðs samir minnask,
álms bifsœki aukum
Yggs feng, á lof þengils;
odds bláferla jarli
ørbrjót né skal þrjóta,
Hárs saltunnu hrannir
hrœrum, óð at stœra.

Hér skiptir háttum í fyrsta ok þriðja vísuorði; hér standaz sem first má stuðlar, en hendingar svá at ein samstafa er á milli, þat greinir háttuna.

Þenna hátt kalla menn riðhendur:

32. Él þreifsk skarpt of Skúla
skýs snarvinda lindar,
egg varð hvǫss í hǫggum
hræs dynbrunnum runnin;
seimþreytir bjó sveita 644
snjallr ilstafna hrafni,
Páll varð und fet falla
fram þrábarni arnar.

Hér skiptir háttum í ǫðru ok fjórða vísuorði, standa þar hendingar báðar samt nær enda ok lúkaz báðar í einn hljóðstaf, ok er betr at samhljóðandi sé eptir aðra.

Þessi háttr er kallat veggjat:

33. Lífs varð rán at raunum,
reið sverð, skapat mjǫk ferðum,
stǫng óð þrátt á þingi
þjóðsterk, liðu fram merki;
hrauð of hilmis bróður
hvǫss egg friðar ván seggjum,
spjót náðu blá bíta,
búandmenn hlutu þar renna.

Hér er háttaskipti í ǫðru ok fjórða vísuorði, ok er þar ein samstafa sett í svá at tvær eru síðar, ok aukit því lengð orðsins.

Nú er flagða-háttr:

646 34. Flaust bjó fólka treystir
fagrskjǫlduðustum ǫldum,
leið skar bragnings bróðir
bjartveggjuðustu reggi;
hest rak hilmir rastar
harðsveipaðastan reipum,
sjár hlaut við þrǫm þjóta
þunghúfuðustu lungi.

Hér skiptir háttum í ǫðru ok fjórða vísuorði, er hér aukit bæði samstǫfu ok fullnat orðtak sem framast, ok eptir þá samstǫfu eru þrjár samstǫfur, ok er rétt dróttkvætt ef hon er ór tekin.

Þessi háttr er en forna skjálfhenda:

35. Reist at Vágsbrú vestan,
varrsíma bar fjarri,
heitfastr háfar rastir
hjálmtýr svǫlu stýri;
støkkr óx, er bar blakka
brims fyr jǫrð it grimma
herfjǫlð, húfar svǫlðu,
hrannláð, búandmanna.

Hér er skjálfhent með aðalhending í þriðja vísuorði í hvárum-tveggja helmingi, en at ǫðru sem dróttkvætt.

Þenna hátt fann fyrst Þorvaldr veili; þá lá hann í útskeri nǫkkuru kominn af skipsbroti ok hafði fátt klæða, en veðr kalt, þá orti hann kvæði er kǫlluð er kviðan skjálfhenda eða drápan steflausa ok kveðit eptir Sigurðar sǫgu.

648 Þetta er þríhent kallat:

36. Hristi hvatt, þá'r reistisk,
herfǫng, mjǫk lǫng véstǫng,
samði fólk, en frǫmðusk,
fullsterk, hringserk, grams verk;
hǫnd lék, herjum reyndisk,
hjǫrr kaldr, allvaldr mannbaldr,
egg-, frá'k breiða bjuggu
bragning fylking, stóð þing.

Hér eru þrennar aðalhendingar í ǫðru ok enu fjórða vísuorði ok lúkaz allar einnig, ok fylgir samstafa fyrir hverja.

Nú er hinn dýri háttr:

7. Vann, kann virðum banna
vald, gjald, hǫfundr aldar,
ferð verð fólka herði
fest mest, sá'r bil lestir;
hátt, þrátt, hǫlða áttar,
hrauð auð jǫfurr rauðum,
þat, gat þengill skatna
þjóð, stóð af gram, bjóða.

Hér eru í hverju vísuorði tvær aðalhendingar samt í phafi, en hin þriðja at hætti við enda.

38. Farar snarar fylkir byrjar, 650
freka breka lemr á snekkjum,
vaka taka vísa rekkar,
viðar skriðar at þat biðja;
svipa skipa sýjur hepnar
sǫmum þrǫmum í byr rǫmmum,
Haka skaka hrannir blǫkkum
hliðar miðar, und kjǫl niðri.

Hér eru þrjár hendingar í vísuorði ok skothend í fyrsta þriðja vísuorði hin þriðja hending ok fylgir samstafa hverri ndingu.

Þessi háttr er kallat tiltekit:

9. Ok hjaldr-reifan hófu
hoddstiklanda miklir,
morðflýtir kná mœta
málmskúrar dyn, hjálmar,
hjaldrs þá'r hilmir foldar
hugdýrum gaf stýri,
ógnsvellir fær allan,
jarldóm gǫfugr, sóma.

Hér skiptir háttum it fimta vísuorð ok leiðir í því orði ltak af fyrra vísuhelmingi, ok dregz þat vísuorð með óðfyllingum mjǫk eptir skjálfhendu enni nýju.

Þessi háttr er kallat greppa-minni: 652

0. Hverr fremr hildi barra?
hverr'r mælingum ferri?
hverr á hǫpp at stœrri?
hverr kann auð at þverra?
veldr hertogi hjaldri,
hann'r first bliknarmanni,
hann á hǫpp at sýnni,
hann vélir blik spannar.

Í þessum hætti er breytt til dróttkvæðs háttar með orðum, flestir yrkja þat með léttum heitum.

Nú er sá háttr er vér kǫllum liðhendur:

41. Velr ítr-hugaðr ýtum
otrgjǫld jǫfurr snotrum,
opt hefr þings fyr þrøngvi
þungfarmr Grana sprungit;
hjǫrs vill rjóðr at ríði
reiðmálmr Gníta-heiðar,
vígs er hreytt at hættis
hvatt Niflunga skatti.

Þat eru liðhendur, er hinn sami stafr stendr fyrir hendingar, ok þá er rétt ort liðhendr háttr, at í ǫðru ok hinu fjórða vísuorði sé oddhending ok skothending við þær hendingar er í fyrra vísuorði eru, ok verðr þá einn upphafsstafr allra þeira þriggja hendinga.

654 Nú er sá háttr er vér kǫllum rétthent:

42. Alrauðum drífr auði;
ógnrakkr firum Hlakkar
veit'k hvar vals á reitu
verpr hringdropa snerpir;
snjallr lætr á fit falla
fagrregn jǫfurr þegnum,
ógnflýtir verr ýtum
arm, Marþallar hvarma.

Hér eru aðalhendingar í fyrsta ok þriðja vísuorði, en gætt at taka ór skothendur.

Nú er alhent:

43. Frama skotnar gram, gotnum,
gjǫf sannask, rǫf spannar,
menstiklir, vensk, miklar
manndýrðir vann skýrðar;
herfjǫlð, bera hǫldar,
hagbáls lagar stála
friðask sjaldan við valdi,
vallands svala branda.

Hér eru tvennar aðalhendingar í hverju vísuorði. Þessi þykkir vera fegrstr ok vandastr ef vel er ortr þeira hátta er kvæði sé ort eptir, ok er þá full alhending ef eigi finnz í: at, ek, en eða þau smáorð er þeim fylgja, nema þau standi í hendingum; en eigi hafa allir menn þat varazt ok er þat því eigi rangt sem kvað Klœingr byskup:

Bað'k sveit á glað Geitis,
gǫr er íð at fǫr tíðum:
drǫgum hest á lǫg lesta,
lið flýtr, en skrið nýtum.

Enn er sá háttr er vér kǫllum ina minni alhendu: þar
u skothendur í enu fyrsta *ok þriðja* vísuorði í báðum helm-
gum svá sem hér segir:

4. Samþykkjar fremr søkkvi
snar þaldr hjarar aldir;
gunnhættir kann Grotta
glaðdript hraða skipta;
féstríðir kná Fróða
friðbygg liði tryggva;
fjǫlvinjaðr hylr Fenju
falr meldr alin-veldi.

En minni alhenda er þá rétt ort, at haldit sé vísulengð 656
man; en ef henni er skotið í fulla alhendu svá at skothendur
þar sumar eða allar í vísuorði, þá er þat eigi rétt.

Þetta er stamhendr háttr: 658

5. Lætr undin brot brotna
bragningr fyr sér hringa;
sá tekr fyr men menja
mætt orð of sik fættir;
armr kná við blik blikna
brimlands viðum randa,
þar's hǫnd at lið liðnar
lýslóðar berr glóðir.

Hér er í fyrsta ok þriðja vísuorði tvíkveðit at einni sam-
ɔfu ok haft þat til hendinga ok fyrir því kǫllum vér þetta
ımhent at tvíkylpt er til hendingar ok standa svá hendingar
ırðinu sem riðhendur.

Nú er sá háttr er samhent er kallat:

6. Virðandi gefr virðum
verbál liðar skerja,
gleðr vellbroti vellum
verðung afar-þungum;
ýtandi fremr ýta
auð sæfuna rauðum
þar's mætum gram mæti
marblakks skipendr þakka.

Hér eru þær hendingar er vér kǫllum samhendur því
þessar eru allar með einum stǫfum, ok eru | í fyrsta ok 660
ðja vísuorði svá settar sem skothendur í dróttkvæðum hætti.

Nú er .idurmælt:

7. Seimþverrir gefr seima
seimǫrr liði beima;
hringmildan spyr'k hringum
hringskemmi brott stinga;
baugstøkkvir fremr baugum
bauggrimmr hjarar drauga;
viðr gullbroti gulli
gullhættr skaða fullan.

Hér er þrim sinnum haft samhending, tysvar í fyrsta ok þriðja vísuorði, en í ǫðru ok hinu fjórða er haldit afhending sem í dunhendum hætti.

Þessi háttr heitir klifat:

48. Auðkendar verr auði
auðtýr boga nauðir,
þar's auðviðum auðit
auðs í gulli rauðu;
heiðmǫnnum býr heiðis
heiðmildr jǫfurr reiðir,
venr heiðfrǫmuðr heiðar
heiðgjǫf vala leiðar.

662 Hér halda samhendingar of allan vísuhelming ok taka með aðalhending ena síðari í ǫðru ok enu fjórða vísuorði.

Nú eru þeir hættir er stúfar heita:

49. Hjaldrremmir tekr Hildi,
hringr brestr at gjǫf, festa,
hnígr und Hǫgna meyjar
hers valdandi tjald;
Heðins mála býr hvílu
hjálmlestanda flestum,
morðaukinn þiggr mæki
mund Hjaðninga sprund.

Hér er it fjórða vísuorð stýft ok tekin af samstafa er í dróttkvæðum hætti skal setja með hending.

Þessi er meiri stúfr:

50. Yggs drósar rýfr eisa
ǫld módsefa tjǫld,
glóð støkkr í haf Hlakkar
hugtúns firum brún;
geðveggjar svífr glugga
glæss dynbrími hræss;
hvattr er hyrr at slétta
hjaldrs gnapturna aldrs.

Hér er stýft annat ok it fjórða vísuorð.

664 Nú er hinn mesti stúfr:

51. Herstefnir lætr hrafn
hungr fullseðjask ungr,
ilspornat getr ǫrn
aldrlausastan haus;
vilja borg en vargr
vígsára klífr grár,
opt sólgit fær ylgr,
jǫfurr góðr vill svá, blóð.

Hér eru ǫll vísuord stýfð.

Þessir hættir er nú eru ritaðir eru greindir í þrjá staði því at menn hafa ort fyrr svá at í einni vísu var

annarr helmingr stýfðr, en annarr tvístýfðr, ok eru þat háttafǫll; sá er inn þriði er alstýfðr er því at hér eru ǫll vísuorð stýfð.

Nú skal rita þann hátt er skothendr heitir:

52. Sær skjǫldungs niðr skúrum,
skǫpt, darraðar, lyptask,
hrindr gunnfána grundar
glygg of frœknum tiggja;
geisa vé fyr vísa,
veðr stǫng at hlym Gungnis,
styrk eru mót ùnd merkjum
málms of ítran hilmi.

Hér eru skothendur í ǫllum vísuorðum, en annat sem dróttkvæðr háttr.

Nú er sá háttr er vér kǫllum liðhendur: 666

53. Stjóri vensk at stœra
stór verk dunu geira,
halda kann með Hildi
hjaldrtýr und sik foldu;
harri slítr í hverri
Hjarranda fǫt snerru;
falla þar til fyllar
fjallvargs jǫru þollar.

Í þessum hætti eru liðhendur með tvennu móti, en aðrar á þá lund at við ena fyrri hending í fyrsta ok þriðja vísuorði *er oddhending ok aðalhending í ǫðru ok fjórða.*

Nú skal rita þá háttu er fornskáld hafa kveðit ok eru nú settir saman, þótt þeir hafi ort sumt með háttafǫllum ok eru þessir hættir dróttkvæðir kallaðir í fornum kvæðum, en sumir finnaz í lausum vísum. Svá sem orti Ragnarr konungr loðbrók með þessum hætti:

54. Skýtr at Skǫglar veðri,
en skjaldagi haldask,
| Hildar hlemmidrífu
of hvítum þrǫm rítar;
en í sœfis sveita
at sverðtogi ferðar
rýðr alda vinr odda, 668
þat'r jarls megin, snarla.

Hér er í fyrsta ok þriðja vísuorði háttlausa, en í ǫðru ok fjórða aðalhendingar; en hǫfuðstafrinn stendr svá sá er kveðandi ræðr í ǫðru ok enu fjórða vísuorði at þar er fyrir sett samstafa ein eða tvær, en at ǫðru sem dróttkvætt.

Nú skal rita Torf-Einars hátt:

55. Hverr séi jǫfra ægi
jarl fjǫlvitrum betra,
eða gjarnara at gœða
glym hraðfeldan skjalda?
stendr af stála skúrar
styrr úlítill Gauti,
þá'r fólks jaðarr foldir
ferr signjǫrðum varða.

Hér er í fyrsta ok þriðja vísuorði háttlausa, en í ǫðru ok fjórða skothent ok riðhent.

670 Nú er Egils háttr:

56. Hverr ali blóði byrsta
bens rauðsylgjum ylgi,
nema svá't gramr of gildi
gráð dag margan vargi?
gefr oddviti undir
egg nýbitnar vitni,
herr sér Fenris fitjar
framkló loðnar roðna.

Hér er í fyrsta ok þriðja vísuorði háttlausa, en í ǫðru ok enu fjorða aðalhendingar ok riðhent.

Nú er Fleins háttr:

57. Hilmir hjálma skúrir
herðir sverði roðnu,
hrjóta hvítir askar,
hrynja brynju spangir;
hnykkja Hlakkar eldar
harða svarðar landi,
remma rimmu glóðir
randa grand of jarli.

Hér er svá farit hendingum sem í dróttkvæðum hætti, en hendingar eru settar saman í ǫndurðu vísuorði.

672 Nú er Braga háttr:

58. Es til hjálma hyrjar
herjum styrjar væni,
þar svá't jarl til ógnar
egnir tognu sverði;
sjá kná garð fyr grundu
grindar þundar jaðra,
er skatna vinr skjaldar
skyldisk galdr at fremja.

Hér er í fyrsta ok þriðja vísuorði it síðasta málsorð haft til hendingar, en missir þess orðs ens fyrra er gera skyldi skothending, en við þetta hendingarorð eru í ǫðru ok enu fjórða vísuorði hendingar, ok er þar ǫnnur hending

skothenda ok liðhenda, en ǫnnur aðalhending við ena fyrstu, en þessar hendingar er standa í ǫðru ok fjórða vísuorði standa sem í Fleins hætti.

Víða er þat í fornskálda verka, er í einni vísu eru ýmsir hættir eða háttafǫll, ok má eigi yrkja eptir því, þóat þat þykki eigi spilla í fornkvæðum.

Nú eru þeir hættir, greindir í þrjá staði, er kimlabǫnd heita; þessi er einn:

59. Hjálmlestir skerr Hristar
hreggǫld Sigars veggi;
gramr lætr í byr brjóta
| brands hnigþili randa stranda;
stálhrafna lætr stefnir
styrvind of sik þyrja;
þiggr at Gǫndlar glyggvi
gagn oddviti bragna sagna. 674

Hér er í fjórða vísuorði í hvárum helmingi aukit aðalhending með tveim samstǫfum eptir vísuorð, en at ǫðru sem dróttkvætt.

Nú er it meira kimlaband:

60. Álmdrosar skylr ísa
ár flest megin-bára sára,
kœnn lætr hræs á hrǫnnum
hjálm-svell jǫfurr gella fella;
styrjǫkla kná stiklir
stinn mens legi venja benja;
lætr stillir frár fylla
fólk sund hjarar lunda unda.

Hér eru tvenn kimlabǫnd á hvárum helmingi.

Þessi eru en mestu kimlabǫnd:

61. Hræljóma fellr hrími, tími
hár vex of gram sára ára,
frost nemr, of hlyn Hristar, Mistar
herkaldan þrǫm skjaldar aldar.
Gullsendir brýtr grundar Hrundar
gunnveggs stǫfum leggi hreggi;
| sóknvallar, spyr'k, svelli, elli,
svá skotnar þat, gotna þrotna. 676

Hér fylgir hverju vísuorði kimlaband.

Nú skal rita hrynjandi háttu; þessi er hinn fyrsti:

62. Tiggi snýr á ógnar áru,
undgagl veit þat, sóknar hagli,
Yngvi drífr at hreggi hlífa,
hjǫrr vélir fjǫr, brynju éli;
vísi, heldr of fjǫrnis foldir,
fólk-, skiptir svá boga driptum,
skúrum lýstr of hilmi hraustan,
hans fregnum styr, Mistar regni.

Hér er it fyrsta ok þriðja vísuorð aukit framan tveim samstǫfum til háttar-setningar, en ef þær eru af teknar, þá er eptir sem dróttkvætt. En ór ǫðru ok fjórða vísuorði má taka málsorð þat er tvær samstǫfur fylgja, en fimta ok en sétta í vísuorði, þá er þat orð ok dróttkvætt.

Í hrynhendum háttum eru optast átta samstǫfur í vísuorði, en hendingar ok stafaskipti fara sem í dróttkvæðum hætti. Þetta kǫllum vér dróttkvæða hrynjandi.

Nú skal sýna fleiri skipun háttanna; er þessi hrynjandi kǫlluð trǫlls háttr:

63. Stála kendi støkkvi-lundum
styrjar valdi rauðu falda,
678 | rekkar stýrðu rétt til jarðar
roðnu barði, austan fjarðar;
oddum rendi eljunstrandir
ýta ferðar hringa skerðir,
hilmir stœrði hvǫssu sverði
heila grundar megin-undir.

Hér eru átta samstǫfur í hverju vísuorði; hér eru hluthendur í ǫllum orðum ok fylgja þrjár samstǫfur hverri hendingu, ok svá fara skothendur ok aðalhendingar ok stafaskipti sem í hrynhendu.

Þessi er einn hrynhendr háttr:

64. Vafði lítt, er virðum mœtti,
vígrœkjandi fram at sœkja,

skerðir gekk í skúrum Hlakkar
Skǫglar serks fyr roðnum merkjum;
ruddisk land, en ræsir þrœnda
Ribbungum skóp bana þungan,
Gunnarr skaut und gera fótar
grimmsetta il hjarna kletti.

Þetta er hrynhenda óbreytt.

Þetta er draughent:

65. Vápna hríð velta náði
vægðar laus feigum hausi,
hilmir lét hǫggum mœta
herða klett bana verðan;
fleina lands fylkir rendi
fjǫrnis hlíð meginskíði,
| ǫflugt sverð eyddi firðum 680
jǫfri kent, holdi fenta.

Í þessum hætti eru tíðast sjau samstǫfur í hverju vísuorði, en hendingar ok stafaskipti sem í dróttkvæðum hætti, ok ef hér er ór tekin ein samstafa í fyrsta ok þriðja vísuorði sú er stendr næst hinni fyrstu, þá falla hljóðin ǫll sem í dróttkvæðu. Svá má ok af taka í ǫðru ok hinu fjórða vísuorði ena sǫmu samstǫfu ok er þá dróttkvætt ok allmjúkt.

Þenna hátt kǫllum vér munnvǫrp:

66. Eyddi úthlaups-mǫnnum
ítr hertogi spjótum,
sungu stál of stillis,
stóð ylgr í val, dólgum;
hal margan lét hǫfði
hoddgrimr jǫfurr skemra,
svá kann rán at refsa
reiðr oddviti þjóðum.

Hér er háttlausa í enu fyrsta ok þriðja vísuorði, en í ǫðru ok enu fjórða skothendur.

Nú er sá háttr er kallat er háttlausa:

67. Orta'k ǫld at minnum
þá'r alframast vissa'k
| of siklinga snjalla 682
með sex togum hátta;
sízt hafa veg né vellum
er virðan mik létu
á aldinn mar orpit,
þat'r oss frami, jǫfrar.

Í þessum hætti eru ǫngvar hendingar, en stafaskipti sem í dróttkvæðum hætti.

Nú eru saman settir í tveim kvæđum sex tigir hátta ok umfram þær átta greinir er fyrst er skipat dróttkvæđum hætti, međ málsgreinum þeim er fylgja háttunum, ok eru þessir hættir allir vel fallnir til at yrkja kvæđi eptir ef vill.

## III.

Nú skal upp hefja it þriđja kvæđi þat er ort er eptir enum smærum háttum, ok eru þeir hættir þó margir áđr í lofkvæđum.

Hér hefr upp togdrápulag:

68. Fremstr varđ Skúli —
skala lof dvala,
684 sem'k mildum gram
mærđ fjǫlsnœrđa:
meir skal'k stœri
styrs hróđr fyrir,
| kærr vas'k harra,
hers gnótt bera.

Hér er í ǫđru ok fjórđa vísuorđi fjórar samstǫfur ok tvær ađalhendingar, ok svá settr hǫfuđstafr sem í dróttkvæđu; en í fyrsta ok þriđja vísuorđi eru ok fjórar réttar samstǫfur ok en fimta afkleyfis-samstafa þat er: ek, af, en, er eđa þvílíkt; þar eru ok skothendingar ok ein hljóđfylling viđ hǫfuđstafinn.

Þetta er annat toglag:

69. Kunn bjó'k kvæđi
konungs bróđur þjóđ,
þann veit'k þengil,
þrenn, fjǫlmennan;
fram skal in fjórđa
fólkglađs vađa
ljóselds lagar
lofun friđrofa.

Svá ferr hér annat ok fjórđa vísuorđ sem í fyrra hætti, en it fyrsta ok þriđja vísuorđ er hér hendingalaust, en tveir hljóđfyllendr viđ hǫfuđstaf sem í dróttkvæđu.

Þessi er hinn þriði háttr er vér kǫllum hagmælt:

70. Mítt'r of mæti
mart lag bragar
| áðr úkveðit
oddbraks spakan;
hlýtr grams geta
greppr úhneppra
skýrr skrautfara. 686
— skjǫldunga ungr.

Í þessum hætti eru skothendingar í fyrsta ok þriðja vísuorði ok stafaskipti sem í dróttkvæðum hætti, en at ǫðru sem togmælt.

Í ǫllu toglagi er eigi rangt þótt fimm samstǫfur sé í vísuorði ef skammar eru sumar ok skjótar.

Þat er togdrápu háttr at stef skal vera til fyrsta vísuorðs ok lúka því máli í enu síðasta vísuorði [kvæðisins], ok er rétt at setja kvæðit með svá mǫrgum stefjamelum sem hann vill, ok er þat tíðast at hafa ǫll jafnlǫng, en hvers stefjamels skal stef upphaf ok niðrlag.

Nú er grœnlenzki háttr:

71. Slóð kann sneiðir
seima geima
hnigfák Haka
hleypa greypa,
| hinn's af hlunni 688
hesta festa
lætr leyfðr skati
langa ganga.

Hér er hit fyrsta ok þriðja vísuorð svá sem hagmælt, en annat ok fjórða með aðalhendingum, ok eru tvær samstǫfur aðalhendar ok endaz báðar í einn staf.

Nú er hinn skammi háttr:

72. Gull kná greppar
glóa róa;
váss eru seggir
samir framir;
eik má und jǫfri
una bruna,
þá nýtr vísi
viðar skriðar.

Hér er it fyrsta ok þriðja vísuorð hendingalaust, en annat ok it fjórða sem grœnlenzki háttr, ok skemri orðtǫkin.

Nú er nýi háttr:

690 73. Ræsir glæsir
Røkkva døkkva
hvítum rítum
hreina reina;
| skreytir hreytir
skafna stafna
hringa stinga
hjǫrtum svǫrtum.

Í þessum hætti eru í hverju vísuorði fjórar samstǫfur, en tvær aðalhendingar, ok lúkaz í einn staf báðar, ok engi afkleyfisorð.

Þetta er náhent:

74. Hafrǫst hristir
hlunnvigg tiggja,
borðgrund bendir
brimdýrs stýri;
blá veit brjóta
byrskíð víði
bǫðharðr bǫrðum
buðlungr þungan.

Í þessum hætti eru fjórar samstǫfur í vísuorði, en hendingar ok stafaskipti sem í dróttkvæðum hætti, nema þat at allar hendingar eru náhendar.

Þetta er stúfhent:

75. Hrinda lætr hniggrund
hafbekks snekkjur,
692 | þá'r falla, fleinþollr
frár, mál, stálum;
hlummi lítr hergramr
hirðmenn spenna,
en rœði raungóð,
rógálfr, skjálfa.

Í þessum hætti eru fjórar samstǫfur í vísuorði, ok er eigi rangt í enu fyrsta ok þriðja, þótt fimm sé: þar eru skothendur, en í ǫðru ok enu fjórða eru aðalhendingar ok báðar saman ok en fyrri stýfð, en stafaskipti sem í dróttkvæðu.

Þetta er hnugghent:

76. Hrannir strýkja hlaðin borð,
haflǫðr skeflir,
kasta náir kjalar stíg
kalt hlýr sǫltum;
svǫrtum hleypir svana fjǫll
snjallmæltr stillir
hlunna fram of Haka veg
hríðfeld skíðum.

Hér er í fyrsta ok þriðja vísuorði sjau samstǫfur ok hendingalaust, en rétt at stǫfum, en annat ok it fjórða hefir 694 fjórar samstǫfur, en skothent ok oddhent, ok stýfð en fyrri hending.

Nú er hálfhnept:

77. Snyðja lætr í sólroð
snekkjur á Manar hlekk,
árla sér, ungr jarl,
allvaldr breka fall;
lypta kná lýðr opt
lauki of kjalar raukn,
greiða náir glygg váð,
greipum mœta dragreip.

Í þessum hætti eru sex samstǫfur í vísuorði, en eigi er rangt þótt verði fimm eða sjau; í fyrsta ok þriðja vísuorði eru skothendur, en aðalhendingar í ǫðru ok hinu fjórða, í hvárumtveggja stað en fyrri hending rétt sem í dróttkvæðu, en en síðari stýfð eða hnept, þat er alt eitt.

Sjá háttr er alhneptr:

78. Hrǫnn skerr, hvatt ferr,
húfr kaldr, allvaldr;
lá brýtr, lǫg skýtr,
limgarmr, rangbarmr;
brátt skekr, byrr rekr,
blán vegg, ráskegg,
| jarl. lætr almætr 696
úsvipt húnskript.

Í þessum hætti eru fjórar samstǫfur í vísuorði hverju ok tvær aðalhendingar ok lúkaz báðar í einn staf, ok allar hendingar hneptar.

Þetta er Haðarlag:

79. Læsir leyfðr vísi
landa útstrandir
blíðr ok bláskíðum
barða ranngarði;
ern kná jarl þyrna
oddum valbrodda
jǫrð með élsnœrðum
jaðri hrænaðra.

Í þessum hætti eru fimm samstǫfur í vísuorði, en hendingar ok stafaskipti sem í dróttkvæðum hætti.

Nú eru þeir hættir er runhendur eru kallaðar, þeir eru með einu móti: hverr háttr runhendr skal vera með aðalhend-

ingum tveim ok í sínu vísuorði hvár hending.

Þessi er rétt runhenda:

80. Lof'r flutt fjǫrum
fyr gunnǫrum,
698 | né spurð spǫrum
spjǫll, gram snǫrum;
hef'k hans fǫrum
til hróðrs gǫrum
ypt úvǫrum
fyr auðs bǫrum.

Í þessum hætti er haldin ein hending um alla vísu, en sú runhending er fyrir stendr hendingar í hverju vísuorði skilr hendingar ok skiptir orðum; því er þetta runhent kallat.

Þetta er hin minni runhenda:

81. Flutta'k frœði
of frama grœði,
tunga tœði,
með tǫlu rœði;
stef skal stœra
stilli Mœra,
hróðr dugir hrœra
ok hǫnum fœra.

Hér gengr hending of hálfa vísu, en ǫnnur hinn síðara helming.

Þessi er en minsta runhenda:

82. Slíkt er svá,
siklingr á,
700 | ǫld þess ann,
orðróm þann:
jarla er
austan ver
skatna skýrstr
Skúli dýrstr.

Þessi háttr er stýfðr eða hneptr af enum fyrra. Í þessum hætti eru þrjár samstǫfur í vísuorði, en tvau vísuorð sér um hending; stafaskipti sem í dróttkvæðu, en finnz þat svá í ǫllum þessum háttum at eigi er rangt, ef í fyrsta ok þriðja vísuorði stendr einu sinni fyrir málsorð hljóðstafr sá er kveðandi ræðr.

Þessir eru enn runhendir:

83. Naðrs gnapa ógn alla,
eyðir baugvalla!
hlunns of hástalla
hestar svanfjalla;
orms er glatt galla
með gumna spjalla,
jarl fremr sveit snjalla,
slíkt má skǫrung kalla.

Þessi háttr er ort međ fullri runhending, ok eru þar fast fimm samstǫfur í vísuorđi eđa sex ef skjótar eru.

Þessi er annarr: 702

84. Orđ fekk gótt gramr,
hann er gunntamr,
mjǫk er fullframr
fylkir rausnsamr;
hinn er mál metr,
milding sízt getr
þann er svá setr
seggi hvern vetr.

Þessi er hneptr af hin(um fyrra) ok međ minni runhending.

85. Mærđ vil'k auka
Mistar lauka
góma sverđi
grundar skerđi;
dýrđ skal segja,
drótt má þegja,
styrjar glóđa
støkkvimóđa.

Í þeima hætti eru fjórar samstǫfur í hverju vísuorđi, en ǫfuđstafr sem í dróttkvæđum hætti, ok fylgir þeim einn jóđfyllandi.

Þessi er hinn þriđi háttr runhendr:

86. Veit'k hrings hrađa
í hǫll lađa,
| gótt'r hús Hlađa,
hirđ ǫlsađa;
drekkr gramr glađa,
en at gjǫf vađa
vitar valstađa, 704
vandbaug-skađa.

Þetta er rétt runhending, ok er þessi háttr tekinn af ǫglagi: hér eru fjórar samstǫfur í vísuorđi eđa fimm ef kjótar eru.

Þessi er hin minni runhenda:

87. Drífr handar hlekkr
þar's hilmir drekkr,
mjǫk'r brǫgnum bekkr
blíđskálar þekkr;
leikr hilmis her
hrein gullin ker,
segi'k alt sem er,
viđ orđa sker.

Þessi er hneptr af hinum fyrra.

þessi er en minsta:

706 88. En þá'r hirð til hallar
hers oddviti kallar,
opt tekr jarl at fagna
við útali bragna;
| búin er gjǫf til greizlu
at gullbrota veizlu,
þrǫngt sitr þjóðar sinni,
þar's mestr frami inni.

þessi runhenda er tekin af dróttkvæðum hætti ok eru hér jafnmargar samstǫfur ok svá stafaskipti sem í dróttkvæðu.

Nú hefr upp enn fjórða bálk runhendinga:

89. Hirð gerir hilmis kátt,
hǫll skipask þrǫngt at gátt,
auð gefr þengill þrátt,
þat spyrr fram í átt;
slíkt tel'k hilmis hátt,
hans er rausn of mátt,
jarl brýtr sundr í smátt
slungit gull við þátt.

þessi háttr er hneptr af enum fyrra, ok rétt runhendr.

Nú er minni runhenda:

90. Mǫrg þjóð ferr til siklings sala,
sœmð er þar til allra dvala,
tiggi veitir seima svala,
satt er bezt of hann at tala;
bresta spyrjum bauga flata,
bragna vinr kann gulli hata,
708 | œðri veit'k at gjǫflund gata
grundar vǫrðr, fyr hringa skata.

þessi runhenda er tekin af hrynhendum hætti.

91. þiggja kná með gulli glǫð
gotna ferð at ræsi mjǫð,
drekka lætr hann sveit at sín
silfri skenkt it fagra vín;
greipum mœtir gullin skál,
gumnum sendir Rínar bál,
eigi hittir œðra mann,
jarla beztr, en skjǫldung þann.

þessi er hneptr af hinni fyrri runhendu.

Hér hefr upp hinn fimta runhendan bálk:

92. Getið var grams fara,
gert hef'k mærð snara,
þengil mun þess vara,
þat nam'k lítt spara;
finnrat frœknara
fœði gunnstara
mann né mildara
merkir blóðsvara.

Þessi er ok full runhenda ok tekin af hálfhneptum hætti eða náhendum.

Þessi er hin minni runhenda:

93. Þengill lætr hǫpp hrest,
hǫnum fylgir dáð mest,
| vísi gefr, vel flest,
verbál . . . úlest.
Húfar brutu haf ljótt,
heim lét'k jǫfur sótt,
Yngva lofar ǫll drótt, 710
jarls sá'k frama gnótt.

Þessi er stýfðr eða hneptr af fyrra hætti.

94. — — — — — Gramr,
gulli søri Kraki framr,
efla frágum Haka hjaldr,
— — — aldr;
ormi veitti Sigurðr sár,
slíkt var alt fyr liðit ár,
Ragnarr þótti skatna skýrstr,
Skúli jarl er myklu dýrstr.

(Málaháttr):

95. Munda'k mildingi,
þá'r Mœra hilmi
flutta'k fjǫgur kvæði,
fimtán stórgjafar:
hvar viti áðr orta
með œðra hætti
mærð of menglǫtuð
maðr und himins-skautum.

(Fornyrðislag): 712

96. Ort'r of ræsi
þann's rýðr granar
vargs ok ylgjar
ok vápn litar;
þat mun æ lifa,
nema ǫld farisk,
bragninga lof,
eða bili heimar.

(Bálkarlag):

97. Lypta'k ljósu
lofi þjóðkonungs,
upp 'r fyr ýta
jarls mærð borin:
hverr muni heyra
hróðr gjǫfláta
seggr svá kveðinn
seims ok hnossa?

(Stikkalag):

98. Veit'k verðari,
þá'r vell gefa,
714 | brǫndum beita
ok búa snekkjur,
hæra hróðrar,
en heimdraga,
unga jǫfra,
en auðspǫruð.

99. Eru þeir jǫfrar
alvitrastir,
hringum hæztir,
hugrakkastir,
vellum verstir,
vígdjarfastir,
hirð hollastir,
happi næstir.

Sú er grein milli þessa hátta at í fornyrðislagi eru í fyrsta ok þriðja vísuorði einn stuðill, en í ǫðru ok fjórða vísuorði þá stendr hǫfuðstafr í miðju orði; en í stikkalagi eru tveir stuðlar, en hǫfuðstafr í miðju orði; en í Bálkarlagi standaz stuðlar ok hǫfuðstafr sem í dróttkvæðu.

(Ljóðaháttr):

100. Gløggva grein
hef'k gert til bragar,
svá'r tírœtt hundrað talit;
hróðrs ørverðr
skala maðr heitinn vera,
ef svá fær alla háttu ort.

(Galdralag):

716 101. Sótta'k fremð
sótta'k fund konungs
sótta'k ítran jarl:
| þá'r ek reist,
þá'r ek renna gat
kaldan straum kili,
kaldan sjá kili.

102. Njóti aldrs
ok auðsala
konungr ok jarl,
þat'r kvæðis lok.
Falli fyrr
fold í ægi,
steini studd,
en stillis lof.

